ertsson, Sigfús Halldórs frá Höfnum, Kristjájn Bessason.

Þegar hér var komið störfum, var liðið að hádegi og fundi frestað til kl. 2 síðd.

Þingið tók aftur til starfa stundvíslega kl. 2 e. h. að fjölmenni viðstöddu.

Fundargerð fyrsta fundar lesin og samþykkt.

Þá var lögð fram skýrsla frá dagskrárnefndinni, er lagði til, að dagskrá sú, er auglýst hefði verið í blöðunum, væri samþykkt með lítilsháttar breytingu á niðurröðun málanna. Samþykkt.

Því næst var álit frá kjörbréfanefnd lesið af framsögumanni, séra Jónasi A. Sigurðssyni og skýrt; hljóðaði það á þessa leið:

1) Kjörbréfanefndin leyfir sér að benda þinginu á síðasta þings samþykktir í 3. grein aukalaga þess, er svo hljóðar: "Allir fulltrúar og erindsrekar skulu skrásettir í þingbyrjun, og að ritað sé við nafn hvers þingmanns tala er sýnir hvað mörg átkvæði hann fer með á þingi, til dæmis 1, 2, eða 10 o. s. frv.

2) Samkvæmt þesu fylgi listi, er sýnir nöfn og atkvæðafjölda erindsreka deilda utan Winnipegborgar, og skrá yfir alla kjörgenga meðlimi deildarinnar Frón í Winnipeg.

3) Tillögur stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins um takmörkun á umboðsatkvæðum, hafa góðfúslega verið teknar til greina, af þeim deildum félagsins er fulltrúa senda, og fara því ýmsar fjarlægar félagsdeildir á mis við að nota til fulls þau réttindi er þeim bera, lögum samkvæmt.

4) Til þess að greiða fyrir þingstörfum leggur nefndin til, að þingið viðhafi atkvæði með handaupprettingu í öllum smærri málum þingsins, en nafnakall þá aðeins, er tveir eða fleiri fulltrúar deilda æskja þess.

5) Listi þeirra er gefið hafa sig fram er á þessa leið:

1. Deildin Fjallkonan, í Wynyard. Fulltrúi: Ásgeir I. Blöndahl, 11 atkvæði.
2. Deildin Iðunn, Leslie. Fulltrúi: Þorsteinn Guðmundsson, 11 atkvæði.
3. Deildin Ísland, Brown. Fulltrúi Th. J. Gíslason, 7 atkvæði; Jón Húnfjörð 8 atkv.; Jóhannes Húnfjörð, 3 atkv. (Frá þessari deild voru einnig stödd á þingi: Mrs. Th. J. Gíslason, Mr. J. S. Gillis.)
4. Deildin Brúin, Selkirk. Fulltrúar: séra Jónas A. Sigurðsson, 11 atkv.; Guðjón Friðriksson, 11 atkv.; Þórður Bjarnason, 11 atkv.; Kristján Bessason, 11 atkv.; Kristján Pálsson, 11 atkv.; Sigurgeir Walterson, 11 atkv.; Mrs. Sigurbjörg Johnson, 11 atkv.; Sveinn Skaftfell, 6 atkv.
5. Nafnaskrá deildarinnar Frón í Winnipeg bæri það með sér að 228 félagar hefðu full þingréttindi.
6. Kunnugt væri um þessa félaga frá Piney: S. S. Anderson, E. E. Einarsson, Stefán Anderson.

Undir álitið ritaðir:

*Ásgeir I. Blöndahl*
*Jónas A. Sigurðsson*
*Þorst. J. Gíslason.*

Tillaga var gerð af B. B. Olson, studd af Halldóri S. Bardal, um að álitið væri samþykkt. Var það gert með öllum greiddum atkvæðum.

Þá mæltist forseti til, svo að auðveldara væri að átta sig á atkvæðagreiðslu, að þeir er ekki hefðu atkvæðisrétt á þinginu, sætu uppi á lofti, en atkvæðisbærir menn niðri í fundarsalnum. Einnig fól forseti Ásm. P. Jóhannssyni, Gísla P. Magnússyni og Guðmundi K. Jónatanssyni að hafa eftirlit með atkvæðagreiðslu.

Næst var skýrsla fjármálanefndar lögð fram, er svo hljóðaði:

"Við, sem skipaðir vorum sem þingnefnd til að athuga og yfirfara skýrslur embættismanna Þjóðræknisfélagsins, finnum ekki ástæðu til neinna athugasemda við þær og leggjum til að þingið veiti þeim viðtöku, eins og þær liggja fyrir.

*Ásmundur P. Jóhannsson*
*Kristján S. Pálsson*
*J. Húnfjörð.*

Var skýrslan samþykkt.

Útbreiðslumálið var næsta mál á dagskrá. Fór forseti nokkrum orðum um það og benti meðal annars á þörfina á því, að prenta bækling er svaraði spurningunni: Til hvers Þjóðræknisfélagið væri til og hverjar væru hugsjónir þess. Árni Eggertsson lagði til og Jón Húnfjörð studdi, að fimm manna nefnd væri skipuð í útbreiðslumálið. Samþykkt. Þessir voru skipaðir í nefndina: Hjálmar Gíslason, Þorsteinn Guðmundsson, Andrés Skagfeld, Guðjón Friðriksson og Jón Stefánsson.

Þeim lið dagskráar er fjallaði um fræðslumál var frestað, samkvæmt skýringu frá milliþinganefnd í því máli um að fyrirlestur yrði fluttur af séra Jóhanni P. Sólmundssyni að kveldinu um það efni.

Þá var á dagskrá Tímaritsmálið. Lagði Ásgeir I. Blöndahl til og B. B. Olson studdi, að fimm manna nefnd væri skipuð í málið.

Séra Jónas A. Sigurðsson hreyfði því að æskilegt væri að þetta mál væri rætt svo að hin fyrirhugaða nefnd, gæti að einhverju leyti stuðst við álit þingsins. Var hann ekki með breytingu á Tímaritinu í þá átt er um hafði verið ritað. Annað og meira þyrfti með til að ná æskulýðnum inn á íslenzkar brautir, en lítilsháttar lesmál fyrir hann í tímariti.

Ásgeir I. Blöndahl minntist á hvort ekki væri kleift kostnaðins vegna, að breyta ritinu í ársfjórðungsrit og selja það í stað þess að gefa það félögum. Kvaðst vera svo ánægður með ritið að hann vildi að það væri sem tíðastur gestur á íslenzkum heimilum.

Jón Stefánsson áleit breytinguna á ritinu gagnslausa að því er æskulýðinn áhrærði.

Árni Eggertsson áleit erfiðara að safna auglýsingum fyrir ársfjórðungsrit en ársrit og efaðist um að með því yrði mætt kostnaði af tíðari útgáfu ritsins.

Að þessum umræðum loknum var samþykkt, að skipa fimm manna nefnd í málið og var hún sem hér segir: B. B. Olson, séra Benjamín Kristjánsson, Ásgeir I. Blöndahl, séra Jónas A. Sigurðsson, Árni Eggertsson.

Húsbyggingamálið var næsta dagskrármál. Lýsti Árni Eggertsson því yfir, að milliþinganefndin hefði ekkert starfað á árinu. En á nýrri hugmynd hefði brytt, sem ef til vill væri nokkurs vert að íhuga. En hún væri í stuttu máli sú, að Norðmenn, Svíar, Íslendingar og Danir slæu sér saman um að reisa stórhýsi eins og það, sem fyrir Þjóðræknisfélaginu hefði vakað. Lagði hann til, og Sigfús Benediktsson studdi, að fimm manna nefnd sé skipuð í málið.

Allmiklar umræður urðu um þetta mál. Ásmundur P. Jóhannsson áleit málið ótímabært. Félagið væri félaust og ókleift myndi jafnvel í félagi með öðrum þjóðflokkum, að færast í fang húsbyggingu.

Sigfús Halldórs frá Höfnum kvað sér það gleðiefni að heyra nýjar hugmyndir koma fram í málinu. Hélt hann Íslendingum ekkert ógreiðara um framkvæmdir en Svíum, sem ákveðið hefðu, að hefjast handa og byggja árið 1930, árið sem Íslendingar ætluðu heim í einingunni! Að koma sér upp heimili væri eitt allra mesta nauðsynjamál Þjóðræknisfélagsins.

Forseti skýrskotaði til þess er hann hafði sagt í ávarpi sínu til þingsins. Kvað hann sérstaklega ýmsum Svíum vera þetta áhugamál. Yrði þetta vegsauki norrænum mönnum í landinu, ef úr gæti orðið. Og engin veruleg ástæða sjáanleg fyrir því, að þetta ætti ekki að takast.

Jón S. Gillis kvaðst sömu skoðunar og Á. P. J.; Þjóðræknisfélagið hefði ekkert við heimili að gera er þing þess kæmi ekki nema einu sinni saman á ári.

Var nú samþykkt að skipa nefndina, og þessir kvaddir í hana: Árni Eggertsson, Páll S. Pálsson, Þórður Bjarnason, séra Þorgeir Jónsson og Kristján Bjarnason.

Að því búnu spurði forseti eftir skýrslum frá deildum.

Var þá skýrsla lesin yfir kennslustarf í íslenzku frá umferðakennurum deildarinnar Frón. Hafði kennslan staðið yfir

frá 15. nóvember 1928 til febrúarloka 1929. 87 börn nutu kennslunnar. Kennarar voru Ragnar Stefánsson og Mrs. E. Sigurðsson.

Einnig var lesin skýrsla frá fjármálaritara Fróns, Guðm. K. Jónatanssyni. Samkvæmt henni hefir félagatala deildarinnar aukist um 85 á árinu; eru því nú alls 262 félagar í Frón. Deildin hefir fundi reglulega, sem jafnaðarlegast eru vel sóttir og góð skemtun er að.

Skýrsla var og lesin frá deildinni Hörpu í Winnipegosis viðvíkjandi starfi hennar á árinu. Hafði deildin ráðið Jón Friðfinnsson tónskáld til söngkennslu í nokkra mánuði, með ágætum árangri.

Lagði Sigfús Halldórs frá Höfnum til og Sigfús B. Benediktsson studdi, að þingið greiddi Jóni Friðfinnssyni þakklætisatkvæði fyrir störf hans í þarfir sönfræðslu á meðal íslenzks æskulýðs. Var það samþykkt með því að þingheimur stóð á fætur.

Bókasafnsmálið var næst á dagskrá. Lagði Sigfús Halldórs frá Höfnum til og Páll S. Pálsson studdi, að skipuð sé 3. manna nefnd í málið. Samþykkt. Þessir voru kvaddir í nefndina: Halldór S. Bardal, Jóhannes H. Húnfjörð, Þorsteinn Guðmundsson.

Þá var íþróttamálið til íhugunar. Fyrir hönd milliþinganefndar í því máli, gaf Sigfús Halldórs frá Höfnum þá skýringu, að íþróttir væru nú mjög lítið stundaðar, og þótti hafa skort fylgisöflun frá félagsstjórninni, því enginn áhugi hefði nokkurntíma náðst né næðist með bréfaskriftum, en vonaði að á því yrði ráðin einhver bót. Var málinu vísað til væntanlegrar félagsstjórnar.

Lá þá fyrir stjórnarskrárbreytingarmálið. Las forseti fyrir hönd félagsstjórnar upp breytingar á stjórnarskrá félagsins er svo hljóðuðu:

*13. gr.* (Frh. við það sem fyrir er):

Nú vill einhver embættismaður félagsins hætta við embætti sitt. Skal hann þá tilkynna forseta það — eða varaforseta, sé um forsetan sjálfan að ræða — að hann hætti störfum. Leggi bæði aðalmaður og varamaður einhvers embættis niður starf milli þinga, skal forseti skipa einhvern annan embættismann til þess að gegna því starfi til næsta þings.

*20 grein*

Skuldlausir félagar, 18 ára eða eldri, hafa heimild til að greiða atkvæði á þingum, hafi þeir eigi afsalað sér þeim réttindum samkvæmt 21. grein.

*21. grein*

Nú æskir deild félagsins að einstakir félagar, er eigi geta sótt þing, fái neytt atkvæðisréttar síns. Skal þá félagsmönnum þessum heimilt að veita einhverjum deildarfélaga skriflegt umboð til þess að fara með atkvæði sín, enda hafi forseti og skrifari deildarinnar staðfest umboðið með undirskriftum sínum. Þó skal engum fulltrúa leyfilegt að fara með fleiri en 10 atkvæði samdeildarmanna. Atkvæði þessi gilda aðeins fyrir deildir utan Winnipegborgar.

*27. grein*

Félagið skal hafa félagsinnsigli, sem ávalt skal vera í vörzlu skrifara.

Öll skjöl er staðfest eru af félaginu, skulu staðfest á þann hátt að þau séu merkt með innsigli félagsins ásamt undirskriftum forseta og skrifara.

*28. grein*

*27. grein* verður *28.* grein. Við hana bætist: ........og öðlast því aðeins gildi að náð hafi samþykkt Ríkisritara Canada.

Þorsteinn Guðmundsson og Ásgeir I. Blöndahl, voru ekki með öllu samþykkir þessum stjórnarskrárbreytingum. Séra Jónas A. Sigurðsson gat um tillögu, er samþykkt hafði verið í deildinni Brúin í Selkirk og svo hefði hljóðað:

"Á fundi sem haldinn var 5. febrúar í deildinni Brúin í Selkirk, var samþykkt þannig orðuð tillaga:

"Deildin Brúin vill helzt að 21. grein laga félagsins um réttindi deilda, sé eins og hún er, en sé henni breytt, þá sé lágmark erindsreka miðað við 25.

Önnur samþykkt var að bjóða Þjóðræknisfqlaginu að halda næsta ársþing í Selkirk 1930

Jón Húnfjörð lagði til og Sigfús B. Benediktsson studdi, að fimm manna nefnd sé skipuð í málið. Séra Jónas A. Sigurðsson gerði breytingartillögu og Þórður Bjarnason studdi, að 7 manna nefnd sé skipuð. Var breytingartillagan samþykkt og þessir skipaðir í nefndina: séra Jónas A. Sigurðsson, Ásm. P. Jóhannsson, Þorsteinn Guðmundsson, Halldór S. Bardal, Ásgeir I. Blöndahl, Þorsteinn J. Gíslason, Bergþór E. Johnson.

Löggildingarmálið lagði Bjarni Magnússon til og Stefán Einarsson studdi, að væri vísað til stjórnarskrárbreytinganefndar. Samþykkt.

Undir nýjum málum bar forseti upp tillögu frá félagsstjórninni um breytingu á tilhögun í störfum embættismanna o. fl. Lagði Ásm. P. Jóhannsson til og Árni Eggertsson studdi, að skipuð sé 3. manna nefnd í það mál. Samþykkt. Í nefndina voru þessir skipaðir: Árni Eggertsson, Páll S. Pálsson, Hjálmar Gíslason.

Fundi frestað til kl. 8 að kveldi.

Þing kom aftur saman kl. 8 að kveldinu. En með því að ákveðið hafði verið að tvær ræður yrðu fluttar um kveldið voru fundarstörf látin bíða. Aðra ræðuna flutti séra Jónas A. Sigurðsson. Að efni til var hún öflug þjóðræknishvöt, en vék um leið að deilumálum þeim er um hríð hafa staðið yfir milli Þjóðræknisfélagsins og vissra manna. Kvað ræðumaður ekki auðvelt að sneiða með öllu hjá þeim málum því við hinu myndi búist, að á þessum stað og tíma væri einhver grein fyrir þeim gerð. Var í því efni málstaður Þjóðræknisfélagsins röggsamlega varin og mun vígfimi sú, er ræðmaður sýndi við það tækifæri, seint fyrnast þeim, er á hlýddu. Að áheyrendum hafi þótt mjög til um mælskuhæfni ræðumanns, má af því ráða, að lófaklapp kvað við upp aftur og aftur um salinn undir ræðunni.

Hina ræðuna flutti séra Jóhann P. Sólmundsson, fyrir hönd milliþingarnefndar fræðslumálanna. Var mál hans með afbrigðum vel hugsað og ítarleg greinargerð fyrir þjóðræknisafstöðu vorri, auk þess er það var snjalt og skemtilega skrifað. Var honum þökkuð ræðan með því, að þingheimur stóð á fætur.

Lýkur hér með frásögninni af fyrsta starfsdegi ársþingsins. Var ákveðið að þingið kæmi aftur saman næsta dag kl. 10 að morgni.

Annar þingdagur Þjóðræknisfélagsins hófst 28. febr. kl. 10 að morgni.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt.

Þingnefnd húsbyggingarmálsins lagði fram svohljóðandi álit:

Nefndin sem skipuð var af þinginu til þess að athuga húsbyggingarmálið, vill láta í ljósi þá skoðun sína, að sjálfsagt sé fyrir félagið að taka til vandlegrar yfirvegunar bendingu þá, sem kom fram í ræðu forseta um samvinnu við aðrar norrænar þjóðir hér í Vestur-Kanada um sameiginlegt heimili. Telur nefndin það hina heppilegustu lausn á húsabyggingarmálinu, ef slík samvinna gæti tekist.

Að sjálfsögðu þyrfti slíkt mál langan og mikinn undirbúning. En þar sem þær raddir hafa heyrst, frá málsmetandi mönnum hinna þjóðanna hér í bænum, að þær myndu vera fúsar til að íhuga slíka samvinnu, þá vill nefndin leggja áherzlu á, að slíkir samvinnu möguleikar verði rannsakaðir sem bezt hið bráðasta. Rannsókn slíks máls, telur nefndin bezt ráðstafað með því að fela málið væntanlegri stjórnarnefnd til meðferðar. Leggjum vér því til, að málinu sé vísað til hennar, og hún beðin að halda vakandi áhuga almennings á málinu á árininu með ritgerðum, og ræðum á mannfundum, ef útlit sýnist verða fyrir því, að málið sé með nokkuru móti framkvæmanlegt á næstu árum.

*P. S. Pálsson,*
*Árni Eggertsson,*
*P. K. Bjarnason,*
*Þórður Bjarnason,*
*Þorgeir Jónsson."*

Þorsteinn Guðmundson lagði til og Jón

Stefánsson studdi, að nefndarálitið væri samþykkt. Var það einróma gert.

Þá var lesið álit Tímaritsnefndar er var á þessa leið:

"Til forseta og þings Þjóðræknisfélagsins: — Nefnd sú er skipuð hefir verið til þess að íhuga útgáfu Tímarits Þjóðræknisfélagsins hefir komið sér saman um að leggja til að útgáfu ritsins verði haldið áfram með líku sniði og að undanförnu.

Hvað snertir þá skoðun sem komið hefir í ljós, að æskilegt sé, að nokkrum hluta af rúmi ritsins verði varið til lesmáls handa börnum, þá er nefndin því eindregið mótfallin, af því að hún telur, að það myndi eigi ná tilgangi. Hinsvegar lítur hún svo á, að full ástæða sé til að halda úti riti fyrir allan þorra þeirra manna, sem enn eru unnandi íslenzkum málum og íslenzkri tungu, og verði það með því móti að beztu gagni íslenzku þjóðerni meðal Vestur-Íslendinga, að leitast sé við, að það rit hafi sem mest bókmenntalegt gildi að geyma.

Ritið á að sjálfsögðu einnig að vera lífið og sálin í öllum þjóðræknissamtökum Vestur-Íslendinga og hlítur að skoðast málgagn Þjóðræknisfélagins; þess vegna telur nefndin einnig hyggilegast, að fylgt verði tekinni reglu, að skuldlausir félagar fái ritið ókeypis. Er þetta sama regla og fylgt hefir verið heima á Íslandi í öllum félögum, er oss er kunnugt um, að gefi út ársrit eða bækur. Enda væri sennilegast, að til þess eins dragi, ef breyta ætti ákvæðum um þetta og fara að krefjast sérstakrar borgunar fyrir ritið, auk félagsgjalds, að menn segðu sig, a. m. k. víða úti á landinu, úr fél., til að geta haldið ritið áfram, og myndi það því eigi bera annan árangur en veikja félagið og áhuga manna fyrir störfum þess til muna. Aftur á móti þykir nefndinni sanngjarnt, að ákveðið sé að setja utanfélagsmönnum Tímarit Þjójðræknisfélagsins eigi lægra en $1.50 árganginn. Ennfremur leggur nefndin til, að eldri árgangar Tímaritsins (I—VIII) sé seldir fyrir 25c árgangurinn og þetta sé auglýst.

Þó að nefndin álíti það á allan hátt mjög æskilegt, að ritið gæti komist út oftar en einu sinni á ári, þá hyggur hún að eigi verði tök á því að sinni meðan félaginu vex eigi betur fiskur um hrygg. Hvorttveggja er, að ritið yrði þá að stækka að mun, svo að nokkuð yrði á þeiri tilbreytni að græða og myndi það þá auðvitað hækka útgáfukostnað allan mjög tilfinnanlega, og sömuleiðis hyggur nefndin, að reynast myndi bæði örðugra og stórum fyrirhafnarmeira, að útvega ritinu auglýsingar — en þær eru nú sem stendur aðal tekjuliður ritsins.

Þess vegna leggur nefndin til að félagsstjórninni séu fengnar í hendur allar frekari framkvæmdir í þessu máli og ráði hún ritstjóra, sem að sjálfsögðu hefir óbundnar hendur með efnisval í ritið.

Á Þjóðræknisþingi í Winnipeg 27. febr. 1929.

*B. B. Olson*
*A. I. Blöndahl*
*Benjamín Kristjánsson*
*Jónas A. Sigurðsson*
*Árni Eggertsson."*

Árni Eggertsson lagði til og Þorsteinn J. Gíslason studdi, að álitið væri samþykkt.

Urðu allmiklar umræður um álitið.

Sigfús Halldórs frá Höfnum fýsti að heyra ástæðu nefndarinnar fyrir því, að ritið skyldi ekki gert að ársfjóðungs- eða misseris-riti.

B. B. Olson kvað útgáfukostnað þar aðallega í vegi. Hversu æskilegt sem væri, að ritið væri sem tíðastur gestur Íslendinga, hefir kostnaðurinn hamlað því í huga nefndarinnar. Annars mætti benda á margt, er auka myndi útbreiðslu ritsins, þar á meðal að það flytti sögur.

Bjarni Magnússon kvað ýmsa annmarka á ritinu, en einkum þó torskildar og óskemtilegar ritgerðir eins og til dæmis þær eftir Pál Bjarnarson birtust í því.

Einar P. Jónsson áleit oft þarft að breyta til. Og ritið þyrfti að reyna að bæta. Félst hann á bendingu S. H. frá Höfnum, um að misserisrit væri heppilegra. Gerði

hann viðauka-tillögu um að félagsstjórninni væri falið, að íhuga hvort ekki væri kleift, að gefa ritið út að minsta kosti tvisvar á ári. Var hún studd af Jóni Gillis.

Sigfúsi Halldórs frá Höfnum virtust ástæður nefndarinnar lítilvægar. Fyrir bækur eða félagagjald í Bókmenntafélaginu greiddu menn $3.00. Menn myndu eigi síður fúsir til að borga svipaða upphæð fyrir tvö hefti, eins góð hvort og hið eina, er Þjóðræknisfélagið gæfi nú út.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson kvaðst fyrstu tvö árin hafa átt að hafa ritstjórn Tímaritsins með forseta á hendi. En það hefði ekki látið sig gerast. Ritið væri óaðgengilegt til lesturs og þess vegna seldist það ver en önnur blöð og rit. Benti hann á vinsældir "Sögu," tímarit Þ. Þ. Þorsteinssonar. Ef Tímarit Þjóðræknisfélagsins væri ekki lesið af æskumönnum, væri það og Þjóðræknisfélagið dauðadæmt.

Forseti vék þá úr sæti sínu til að taka þátt í umræðum um málið. Benti hann á, að tal manna um það, að ritið væri lítið lesið, væri á litlu reist. Ritið færi inn á allt að því 1000 heimili, því að félagar væru orðnir svo margir. Þeir sem í Þjóðræknisfélaginu væru, væri vitaskuld sá hluti Vestur-Íslendinga, sem helzt sinti íslenzkum bókum og tímaritum. Ennfremur benti hann á, að það sem sagt hefði verið um innihald ritsins, bæði á þessu þingi og áður, að ritgerðir væru ekki nógu alþýðulegar, væri næsta barnalegt. Í ritið hefðu skrifað flestir þeir íslenzkir rithöfundar, sem vinsælastir væru af alþýðu manna. Nefndi hann til dæmis Magnús og Kjartan Helgasyni, Steingrím Matthíasson og Guðmund Friðjónsson. Ádeilurnar á ritgerðir Páls Bjarnarsonar væru til minkunar. Hér væri að ræða um þann eina mann meðal Vestur-Íslendinga, sem haft hefði vísindalega þekkingu á íslenzkri tungu; hann væri ágætur rithöfundur, en nú væri ritstjóri Tímaritsins átalinn fyrir að leyfa slíkum manni rúm.

Þorsteinn Guðmundsson kvað það gátu, sem enn væri óráðin að sinni skoðun, hvernig haga ætti svo útgáfu íslenzkra bóka, að börn hér læsu. Tímaritið kvaðst hann ánægður með á því sviði sem það næði til. Að því er þingnefndarálitið snerti, var hann á móti því að ritið væri selt utanfélagsmönnum dýrara en félagsmönum.

Séra Jóhann Sólmundsson kvaðst ekki vilja fyrir nokkurn mun sjá af því bezta í ritinu. Sumir gerðu kröfu til þess, að einhver hugsun væri í því sem skrifað væri. Aðrir æsktu léttmetis. Tímaritið áleit hann heppilegast óbreytt; kvað það geyma það bezta og dýrmætasta í andlegum auði vorum Vestur-Íslendinga. Fyrir þá, sem létts lesmáls æsktu, mætti gefa út annað rit.

Séra Jónas A. Sigurðsson var nefndarálitinu samþykkur. Tímaritið væri sniðið eftir tímaritum þjóðar vorrar. Fyrirmyndin væri þaðan. Viðaukatillögu E. P. J. áleit hann að hefði verið vegsauki Þjóðræknisfélaginu og líftaug þess.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson áleit ekkert hægara en að hafa ritið bæði fyrir börn og fullorðna. Og ef ritið seddi ekki börnin dæu þau, og þá yrðu hér brátt engir Íslendingar og ekkert Þjóðræknisfélag.

Ásm. P. Jóhannsson sagði félagsstjórnina hafa séð um ritstjórn Tímaritsins fyrstu tvö árin. Seinna hefði einum ritstjóra verið falið verkið. Ritið væri félaginu til sóma. Dr. Rögnvaldur Pétursson hefði leyst verkið ágætlega af hendi. En vegna ríkjandi flokkadráttar, dytti sér í hug, hvort ekki væri heppilegt, að skifta um ritstjóra eins og aðra starfsmenn. Að því er útgáfu ritsins snerti, treysti hann væntanlegri stjórn félagsins að hleypa sér ekki út í neinar ógöngur.

Þá kom tillaga frá B. B. Olson, studd af Jóni Gillis, að ljúka umræðum um málið. Sú tillaga var feld.

Kristján P. Bjarnason tók næst til máls. Kvað hann fyrsta skilyrði til viðhalds íslenzku hér, að menn sýndu einlægni og áhuga fyrir málinu. Af því lærðu börn-

in fljótast og fljótara en þó stafrófskver kæmist inn á hvert heimili. Hann kvaðst fæddur hér og uppalinn, en samtaksleysið í þjóðræknismálinu ætti hann bágt með að skilja hjá þeim, sem frá ættjörðinni hefðu komið og hlytu allir að bera þangað hlýjan hug. Lesmál fyrir börn í Tímaritinu áleit hann þýðingarlítið. Áhuga þeirra þyrfti að vekja með öðru.

Mrs. F. Swanson benti á að "Saga Íslands" á ensku, hefði verið keypt af Þjóðræknisfélaginu til þess að æskulýðurinn hér ætti greiðan gang að því máli sem honum væri tamast því að kynnast því sem íslenzkt væri. Sér væri þó ekki kunnugt um neinn árangur af því.

Þá var gerð tillaga um að fresta fundi til klukkan 2 e. h. Samþykkt.

Eins og ráð var gert fyrir kom þingið aftur saman klukkan 2 e. h.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt.

Björn Magnússon fór nokkrum orðum um Tímaritsnefndarmálið, er umræður stóðu um er fundi var frestað. Kvað hann mestu varða, að það sem skrifað væri, hefði við sannleik að styðjast. Benti á dæmi um ónákvæmni og þekkingarskort á skógrækt í grein er hefði komið í Tímaritinu. Að öðru leyti áleit hann Tímaritið bezt komið eins og það nú væri.

Að því loknu las forseti enn álit Tímaritsnefndar og bar það upp til atkvæða. Var það nú samþykkt. Ennfremur bar hann upp viðauka-tillögu E. P. J. við álitið, og var hún einnig samþykkt.

Spurði þá forseti hvort erindsrekar frá deildum hefðu ekki skýrslur að flytja þinginu.

Las þá Þorsteinn Guðmundsson upp skýrslu frá deildinni "Iðunn" í Leslie. Bar hún með sér að tekjur á árinu hefðu numið $278.50. Stærsti tekjuliðurinn. var í sambandi við Þorrablót er haldið var í fyrra vetur. En mestu af fénu er varið til bókakaupa eða til eflingar bókasafni, er deildin hefur stofnað. Gildir félagar eru 42, en milli 50 og 60 heyrðu deildinni alls til.

Skýrsla frá Guðjóni F. Friðrikssyni, ritara deildarinnar "Brúin" í Selkirk bar með sér að 10 starfsfundir hefðu verið haldnir á árinu. Félagar voru í fyrra 63, nú 90. Söngkennslu hefir deildin haldið uppi er 80 börn tóku þátt í og varð kostnaðurinn við það $121.00. Brynjólfur Þorláksson og Björgvin Guðmundsson höfðu kennsluna með höndum. Íþróttafélagi hefir deildin einnig reynt að halda við og hefir varið $92 fyrir útbúnað þar að lútandi. Kennsla í íslenzku var einnig um hönd höfð um tíma.

Ásgeir I. Blöndahl frá deildinni í Wynyard kvaðst ekki hafa búið sig út með skýrslu, en hagur deildarinnar væri eins góður og vænta mætti og félögum kvað hann fjölga. Deilurnar á Þjóðræknisfélagið hefðu í því efni mikið hjálpað deildinni og fylgi Þjóðræknisfélagsins ykist við hverja sennuna.

Skógrækt á Íslandi var næst til umræðu. J. J. Bíldfell skýrði frá, að hann hefði átt tal um málið í ferð sinni heim til Íslands, bæði við forsætis- og dómsmálaráðherrann. Létu þeir í ljósi innilegt þakklæti sitt til Vestur-Íslendinga fyrir að hafa þetta þarfa og mikla mál með höndum og ræktarþelið er það bæri vott um. Vonuðu þeir, að hægt yrði bráðlega að hefja samvinnu við Vestur-Íslendinga um málið.

Björn Magnússon, er fyrstur manna hreyfði þessu máli hér, skýrði frá, að hann hefði leitað sér upplýsinga og álits sérfróðra manna í Canada um skógrækt og hvaða viðartegundir þeir álitu að á Íslandi myndu vaxa. Las hann bréf frá þeim viðvíkjandi þessu. Æskti hann að milliþinganefnd væri sett í málið.

Sigfús B. Benediktsson lagði til og Árni Magnússon studdi, að fimm manna nefnd væri kosin til þess að annast skógræktarmálið milli þinga. Samþykkt. Voru þessir menn kosnir: Björn Magnússon, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, séra Rúnólfur Marteinsson, Árni Eggertsson, séra Jóhann Sólmundsson.

Þá var álit þingnefndar um tillögur

stjórnarnefndar um breytingu á tilhögun á starfi embættismanna lesið upp. Var það á þessa leið:

"Nefndin sem skipuð var til að athuga tillögur stjórnarnefndar um starfskiftingu embættismanna og um sölu Tímaritsins leggur til að:

1) Að samþykktir séu fyrsti og annar liður en að þriðja og fjórða lið sé vísað til nefndarinnar, sem fjallar um útgáfu Tímaritsins.

*Árni Eggertsson*
*Páll Pálsson*
*Hjálmar Gíslason.*"

Tillögur stjórnarnefndar voru þessar:

"Tillögur stjórnarnefndar um breytingu á starfsskiftingu embættismanna félagsins og um sölu Tímaritsins:

1. Fjármálaritari hafi með höndum afhending Tímaritsins til félagsmanna.
2. Fjármálaritari sé launaður með $150 á ári.
3. Söluverð Tímaritsins til utanfélagsmanna sé $1.50.
4. Með því að meiri birgðir af flestum árgöngum Tímaritsins eru á hendi en hugsanlegt er að nokkurntíma geti selst, mælum vér með því að einhver ráðstöfun sé gerð til þess að minka þessar birgðir.

Ásmundur P. Jóhannsson lagði til og Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi, að nefndarálitið sé afgreitt lið fyrir lið. Samþykkt.

1. liður samþykktur.

2. liður sætti mótmælum frá Ásmundi P. Jóhannssyni. Virtist honum vanráðið að gera þingsamþykkt um að greiða fjármálaritara fastalaun. Var þessum lið frestað þar til eftir kl. 2 síðdegis næsta dag.

3. og 4. liður: B. B. Olson lagði til og Sigfús Haldórs frá Höfnum studdi, að þessir liðir væru felldir úr tillögunni, með því að þeir hefðu verið afgreiddir í Tímaritsnefnar-álitinu. Samþykkt.

Álit þingnefndar í útbreiðslumálinu var nú lesið er svo hljóðaði:

Nefndin sem skipuð var til að athuga útbreiðslumálið, leggur til, samkvæmt bendingu forseta; 1.) að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins gefi út við fyrsta tækifæri og útbýti gefins til allra íslenzkra heimila riti sem skýri tilgang félagsins, og hvetji Íslendinga til samtaka í Þjóðernismálum. 2). Þá leggur nefndin til, að þar sem augljóst er, að framtíð félagsins hvíli á samstarfi við æskulýðinn, að stjórnarnefndinni sé falið að gera sitt ítrasta til samvinnu við íslenzka stúdentafélagið hér í borginni og önnur ungmennafélög. Helzt þannig að stúdentafélagið myndaði deild innan Þjóðræknisfélagsins og hefði áhrif á önnur ungmennafélög.

Ennfremur gerir nefndin ráð fyrir að áherzla verði lögð á stofnun nýrra deilda og öflun nýrra meðlima, og að heimila stjórninni í því augnamiði, allt að $500.

*Hjálmar Gíslason*
*Guðjón S. Friðriksson*
*Jón Stefánsson*
*Th. Guðmundsson*
*A. J. Skagfeld.*

B. B. Olson lagði til og Guðmundur Eyford studdi, að álitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykkt.

Milliþinganefnd í fræðslumálum er einnig hafði álit að leggja fyrir þingið, æskti, að hennar álit væri lesið áður en þingnefndarálitið væri afgreitt. Var mælt á móti því af ýmsum, en forseti úrskurðaði að milliþinganefndar-álitið skyldi lesið.

Eins og getið hefir verið um áður í þessum fundargerning, flutti séra Jóhann P. Sólmundsson ítarlegt erindi að kveldi hins fyrsta þingdags, og hafði það erindi verið samið af honum í sambandi við starf hans sem ritara milliþinganefndar. Var vitnað til þeirrar greinargerðar, en niðurlag þess erindis og jákvæðar tillögur nefndarinnar voru nú lesnar og eru á þessa leið:

Að öllu þessu íhuguðu, fól nefndin skrifara sínum að taka saman ritgerð til skýringar þeim tillögum, sem nefndin bæri hér fram. Voru þau ummæli látin fylgja,

að úr því þyrfti helzt að geta orðið bæklingur, sem ætti erindi inn á hvert íslenzkt heimili hér vestra og jafnvel á Íslandi líka. Sú ritgerð hefir þegar verið flutt í heyrandi hljóði, og látum vér nú svofelldar tillögur fylgja:

1. Að þing þetta lýsi hér með yfir því, að það sé sín hjartanleg ósk, að Vestur-Íslendingum mætti sem fyrst auðnast, með sameiginlegum samtalsfundi, að setja á stofn hjá sér þjóðernislega lögréttu, eða menningarmiðstöð, allra sinna íslenzku starfsemda, í hinum mörgu og dreifðu byggðarlögum sínum, víðsvegar í Vesturheimi.

2. Að þingið ákveði, að ráðstafanir skuli til þess gerðar, svo framt sem mögulegt er, að ekkert vestur-íslenzkt ungmenni sé látið vera ófrótt um orsök hátíðahaldsins á Íslandi, árið 1930.

3. Að í tilefni af síðustu tillögu, og með tilliti til annara líkra þarfa, feli þingið stjórnarnefndinni að gangast tafarlaust fyrir útgáfu íslenzks mánaðarrits handa unglingum.

4. Að þingið ákveði, að eftir því skuli grenslast, utan þess svæðis sem umferðakennsla nær nú til, hversu ástatt sé með lestrarkennslu, og með hverjum hætti kynni að mega veita aðstoð, þar sem hennar væri þörf.

5. Að þingið hvetji íslenzkan almenning til þess að gera sitt ítrasta til að vekja hjá hinu yngra fólki lestrarfýsn á íslenzkum bókum, íhugun íslenzkra mynda, þar sem þess er kostur, og sem réttasta fræðslu um Ísland og Íslendinga, og hvers eins eigið ætterni, eftir því sem þeir fullorðnu bezt kunna.

6. Að þingið feli hér með stjórnarnefndinni að eiga hlut að máli um samkeppni í framsögn á íslenzku, með því að veita heiðurspening Þjóðræknisfélagsins til verðlauna, eður á annan hátt, sem bezt þætti henta.

7. Að hvern mann eða konu, sem hefir áhuga fyrir því, að námshlunnindi skólanna sé hagnýtt, hvetji þingið hér með til að koma sér í bréfaviðskifti við stjórnarnefnd þessa félags.

8. Að þingið feli stjórnarnefndinni, að bregðast eftir mætti, vel við þeim undirtektum sem af framangreindum ályktunum kynni að leiða; einkum og sér í lagi með tilliti til þess, að börnunum verður að gera auðvelt að komast yfir blöð og bækur við sitt hæfi, og fullorðna fólkinu verður að kenna það að kenna.

Milliþinganefnd sú, er skipuð var á síðasta þingi, til að íhuga úrræði íslenzkunni til viðhalds, hér vestan hafs, leyfi sér að telja hér fram, það sem að undanförnu hefir komið að mestum notum.

a) Notkun tungunnar sjálfrar í samræðum á íslenzkum heimilum.

b) Kirkjusöngur og margvíslegt íslenzkt félagsstarf og samkvæmislíf.

c) Lestur íslenzkra bóka og blaða.

d) Kennsla í lestri, söngvum og sögum á heimilum, í sunnudagaskólum og laugardagaskólum, og með umferðarkennslu.

e) Íslenzk söngkennsla.

f) Nám í íslenzkri málfræði og bókmenntum í miðskólum og háskólum.

Allt saman þetta hefir verið reynt og allt borið einhvern árangur.

Sterklega viljum vér mæla með því, að öllu þessu verði haldið áfram, á allan þann hátt, og allstaðar, þar sem unt er. Sérstaklega teljum við það miklu máli skifta, að Íslendingar í Manitoba hagnýti sér, betur en raun hefir á orðið, þau íslenzknámshlunnindi sem lög fylkisins heimila. Það er bæði tjón og ósómi, hvað lítið þau lagaréttindi, enn sem komið er, hafa verið notuð. Þessi sömu hlunnindi, en þó aðeins í miðskólanámi, veita lög Saskatchewanfylkis, og eru þau jafnvel enn minna notuð þar.

9. Að þingið skipi nefnd eða nefndir þessum ályktunum til framkvæmda, að svo miklu leyti sem þess gerist þörf.

*Rúnólfur Marteinsson*
*J. P. Sólmundsson*
*Sig. Júl. Jóhannesson.*

Að þessu áliti lesnu, var aftur horfið að áliti útbreiðslumálanefndar.

Var fyrsti liður samþykktur. Um annan

lið urðu nokkrar umræður, en var þó samþykktur óbreyttur. Viðvíkjandi 3. lið gerði Árni Egertsson tillögu og séra Jónas A. Sigurðsson studdi, að upphæðin til útbreiðslumála sé ákveðin $300. í stað $500. Samþykkt.

Þá var álit milliþinganefndar í fræðslumálum íhugað.

Lagði A. P. Jóhannsson til og Páll S. Pálsson studdi að álitið sé rætt lið fyrir lið. Samþykkt.

*1. liður:*

A. P. Jóhannsson lagði til og Páll S. Pálsson studdi, að þessi liður sé felldur. Eftir nokkrar umræður er mest lutu að því hvaða skilning ætti að leggja í orðið "lögréttu," var tillagan samþykkt.

*2. liður:*

A. P. Jóhannsson lagði til og Páll S. Pálsson studdi að þessi liður sé samþykktur. Var það gert eftir stutta umræðu.

*3. liður:*

A. P. Jóhannsson lagði til og Guðjón Friðriksson studdi, að þessi liður sé felldur.

J. K. Jónasson frá Vogar benti á að enginn hörgull væri á bókum fyrir börn. Lestrarfélög væri víðast út um sveitir og að gefa út mánaðarrit fyrir börn myndi reynast kostnaðarsamt. Þess vegna væri hann á móti þesum lið álitsins.

Þorst. J. Gíslason gerði breytingartillögu og Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi, að þessum lið sé vísað til stjórnarnefndar. Samþykkt.

Liðum þeim er nú voru óafgreiddir í þessu áliti var frestað, með leyfi nefndarmanna, með því að annað mál lá fyrir er brýn nauðsyn krafðist að kæmist að. En það var skýrsla frá Árna Eggertssyni lögfræðingi er Þjóðræknisfélagið hefði beðið að takast á hendur ferð til Prince Albert til að líta inn í hverjar líkur væru til þess að eitthvað ferkara væri hægt að vera Ingólfi Ingólfssyni til aðstoðar.

Var Árni Eggertsson þá beðinn að flytja mál sitt. Bað hann um leyfi þingsins til að flytja skýrsluna á Ensku og var það veitt. Er hún á þessa leið.

I was instructed by the Icelandic National Patriotic League of Winnipeg, Manitoba, under date of February 25th to proceed to Prince Albert and go into the question of the present welfare of Ingólfur Ingólfsson who is serving a sentence of life imprisonment, and especially go into the question of his mental soundness.

I proceeded to Prince Albert, Sask., on Tuesday, February 26th, and interviewed the authorities at Prince Albert penitentiary on the 27th inst., and discussed the matter especially as to the present welfare of the prisoner in question and dealt especially as to his mental condition.

I might state that Ingólfur Ingólfsson entered Prince Albert Penitentiary in the monh of Febrúary 1926 and has since been incarcerated there. At this stage I might mention that the auhorities in charge have had an opportunity of thoroughly studying the different prisoners in their charge and therefore have a thorough konwledge of what is not only best for their own personal welfare but have had the added experience in knowing the effects on different prisoners of various treatments meted out to them.

In my investigation I pointed out to the authorities that it was not only the interest of the Society in Ingólfur Ingólfsson's own life, but on account of his act of murder for which he was convicted, a stigma had attached to the Icelandic race in America and elsewhere, as this was the first case in the history of the Icelandic people and their decendants in America that a person of that race had been convicted of a capital offence. I at the same time mentioned that the Icelandic people and their decendants in this country were very proud of their records and achievements, especially proud of the fact that there were so few of their countrymen who had been incarcerated in either of the gaols or penitentiaries of Canada, let alone convicted of capital offence. For that reason I might go so far as to say that this sad state of affairs in relation to the unfortunate Ingólfur Ingólfsson

piqued their vanity. This I advised them was the main reason why the Icelandic National Patriotic League was anxious to delve into the matter again and ascertain if there was any reasonable ground for their suspicion as to his mental incapacity. I might point out that no person or persons whatsoever are allowed to contribute anything at all towards the welfare or wellbeing of any prisoner incarcerated in any of the penitentiaries of Canada as the authorities take the view that he prisoners are amply provided for by he state, and for that reason any move to disturb that relationship beween the authorities and the prisoner, or as between any outside organization and prisoner is very strongly resented by the authorities in charge of the penitentiary. And at the same time I might mention that there is no visiting done by outside organizations in the penitentiary as is say the rule in all our governmental hospitals.

I would point out that it is provided for in the criminal code of Canada that in case there is any likelihood of a prisoner being of unsound mind that investigations as to his sanity should be made previous to his trial by a jury of 12 men, before his trial is proceeded with but in the case of Ingólfur Ingólfsson this was not done. Also it is provided for in the Penitentiary Act of Canada that in case any prisoner who has entered one of the penitentiaries of Canada is found to be insane within three months of his entry to such penitentiary and upon certificate from the surgeon of the penitentiary to the effect that such person, if in the opinion of such surgeon, such action is warranted, shall be confined in a mental hospital in the province from which he came from and shall remain there until such a time as he is cured, shall be returned to the penitentiary from whence he came to complete his sentence unless ordered by the Governor General in Council at Ottawa, Ontario, but this was not done in the case of Ingólfur Ingólfsson aforesaid.

I was advised in my investigations that all the authorities at Prince Albert, Sask., were of the opinion that Ingólfur Ingólfsson is not mentally sound, that he is peculiar in his speech and his actions, but that he is not at all violently insane, or dangerous to his fellow prisoners, in fact he has been a model prisoner in the four years that he has been incarcerated at Prince Albert penitentiary and has never shown any violence at all, and this corroborated by the surgeon in charge of the penitentiary.

I investigated the reason why Ingólfur Ingólfsson had not been sent to a mental hospital and I was advised that although he was not sound mentally his condition was of such a nature that he could get along all right at the penitentiary, and if his condition does not get worse he will fare much better there than at the mental hospital, and that Ingólfur Ingólfsson has behaved mighty well, is not at all despondent, and has never complained of his treatment there, nor has he required any medical attention.

As I was anxious to get into the question of the mental aspect of the case I enquired if it were not advisable to have Ingólfur Ingólfsson examined by a high authority on mental diseases and have it established beyond a question of a doubt that he was mentally unsound. I was advised that not much good would be derived from such a procedure as in this case doubt was expressed whether such an examination would really have him placed in a mental hospital. If he were placed in a mental hospital it would act as against his personal or physical welfare as his opportunity of eventually obtaining a parole would be thereby lessened.

It was brought to my attention by the authorities that the only advantage in having this done and obtaining a certificate of insanity would be to satisfy the vanity of the Icelanders in America and the Icelandic National Patriotic League in having it definitely proved that Ingólfur Ingólfsson was insane and therefore legally not responsible for his actions in commit-

ting the alleged murder of which he was convicted by a duly constituted court of law.

The question now arises, would that certificate be sufficient to satisfy that vanity? As far as I can ascertain there is no medical examination of Ingólfur Ingólfsson prior to his trial as to the question of his sanity. There was no examination after his conviction, and there has been no examination by a sanity expert since his incarceration in Prince Albert, and further, there is no medical history available prior to his arrest on the murder charge which would assist a sanity expert in arriving at a conclusion as to whether his condition was a malignancy or not, therefore, how can a sanity expert now go back four years and make a definite declaration that he was insane and mentally unsound at the time of the crime, when he has none of the material above stated to guide himself by. Therefore, it appears to me that an examination at this late date would not give the desired result as it would have done prior to his trial, or immediately subsequent thereto.

I was naturally curious to ascertain as to if there were any further reasons to substantiate the statement of the authorities as to the alleged insanity of the prisoner outside of the ones already stipulated by me. I would like to bring to your attention that after a perusal of the available crime record of the prisoner I have found that this prisoner was a habitual drunkard. In fact it appears from the year 1903 to 1907 that he practically spent his entire time in one or other of the gaols of this country, but in studying such crime report I find that there has not been one conviction for a crime of violence, outside of the conviction of murder, in some twenty convictions registered against him. And I ask you, can any mentally sound person act in such a manner as this one acted, because you might remember that crime reports were not available prior to the year 1903, and then the police could not possibly have apprehended the prisoner on each occasion that he was engaged in a drinking bout, and it is my opinion that this is a very strong sign of mental incapacity and it appears to me that if Ingólfur Ingólfsson committed this last crime, that such crime was undoubtedly committed in the midst of a drinking bout, and when persons of his mental capacity are so engaged they commit actions which they would not otherwise commit or do while under the influence of liquor.

There is one more point that I desire to bring to your attention under this heading of mentality, and that is that the authorities at Prince Albert penitentiary consider Ingólfur Ingólfsson to have the mentality of a child of eight to twelve years of age and that his brain has naturally not fully developed. He is harmless, that he has shown no sign of being dangerous towards his fellow men and that it would do him no good to be confined in a mental hospital. I have an analogous situation to bring to your attention and which seems to state the facts as they are applicable to Ingólfur Ingólfsson. There was a case at Melfort, Sask., just recently where a man by the name of Olson was charged with killing a man and his housekeeper, and after committing the deed he placed the bodies in a farmhouse and poured kerosene over them as well as liberally sprinkled the house and then put the house on fire. The house was destroyed but what remained of the bodies was found in the embers and he was tried before a competent court of jurisdiction, found guilty and condemned to hang An appeal was taken to the Court of Appeal in Saskatchewan in relation of the charge of the judge to the jury but the appeal was dismissed. Olson was examined as to his mentality by a high medical authority, Dr. McNeil, superintendent of Battleford Mental Hospital at Battleford, and jury was empanelled prior to his arraignment and trial to go into the question of his sanity but their verdict was hat he was sane. However, the Court of

Appeal of Saskatchewan took the matter into consideration and made recommendation to the Minister of Justice as to his apparent insanity which has now been acted upon.

I am now advised that this Olson is now in the keeping of the Penitentiary at Prince Albert, sentence having been committed to life imprisonment and that it is the opinion of high medical auhorities that he has the mentality of a child of eigh to twelve years of age, and that he is harmless and that he will remain in the penitentiary until such a time as he shows any signs of becoming violent, which is believed to be remote, and I am advised that the situation of Ingólfur Ingólfsson is similar to that of Olson. Even though an examination were to be made of Ingólfur Ingólfsson I doubt very much whether he could be sent to a mental hospital, that is, if the same conclusions were reached of him as with the case of Olson.

In my investigation I ascertained that Ingólfur Ingólfsson would not desire to be placed in a mental hospital unless he thought that he would obtain a parole sooner than he would do if he remained at the penitentiary. If such were not the case I am certain that Ingólfur Ingólfsson would rather be in the penitentiary than in a mental hospital. I also ascertained fròm the authorities that one of the main reasons why it would not be advisable to have Ingólfur Ingólfsson examined by mental specialists was that if such specialists would certify that Ingólfur Ingólfsson was not sound mentally and should be forthwith confined in a mental hospital, and the superintendent of that hospital came to the conclusion that Ingólfur Ingólfsson was uncurable, all hopes of a parole for him would be shattered and he would remain there until his death. If such examination revealed the necessity of sending Ingólfur Ingólfsson to a mental hospital and such examination was made at the investigation of the Icelandic National Patriotic League, regulations require the prisoner to be sent to a mental hospital in the province from which he comes, in this case Alberta, which is very ill-equipped with mental hospitals and the maintainence of the prisoner, which is $1.00 per day, would have to be paid by the province of Alberta, or as is the rule when he has dependents, and as the Society would be the investigator of such action the government would naturally infer that they would be prepared to meet the cost of such maintainence, but if they do not do so and dropped the matter then and there like a hot potato, such maintainance would fall on the government which would tend to place the Society in a very compromising and uncomfortable position towards the government.

I consider that it would be more advisable to ascertain from the Minister of Justice at Ottawa, Ontario, the grounds upon which the Gov.-General in Council granted the commutation of sentence to life imprisonment which information I understand is not at hand because this might reveal that the commutation was granted on account of his mental incapacity and if such were the case it is certain that a medical examination of the prisoner as held prior to the granting of the commutaion which would be very valuable to prove that the man was insane at the time that he committed the deed and which in my opinion would obviate the necessity at this stage of examing him as to his mentality.

If the Society desires to have Ingólfur Ingólfsson examined as to his sanity in view of the findings that I have arrived at I would empatically state that such procedure would be taken not only for the welfare and well being of Ing. Ingólfsson but to satisfy beyond a question of doubt the vanity of the Icelandic people in America, which I would consider to be a very improper motive in this case, and I would not recommend that it be done.

The reasons for such recommendation will be discernible to you after I have gone into the question of the probabilities of his obtaining parole.

I have ascertained that Ingólfur Ingólfs-

son has spent four years in the Prince Albert penitentiary and has been a model prisoner and that he would probably be able to obtain a parole after he had spent at least ten years in the institution and that in the opinion of the authorities no lifer has obtained a parole in less than ten years from the date of entry into the peitentiary. When going into this aspect of the situation I enquired of the age of the prisoner and after looking up the records I was advised that he was born in the year 1870, and since that time I have ascertained that he was given as 59 years of age at the time that the application for commutation to life imprisonment was made. If a parole were obtained it would mean that Ingólfur Ingólfsson would be at least sixty five years of age when consideration would be given the matter and you can readily ascertain that he would not be in a position, if freed, of maintaining himself, unless he has some dependents to look after him in his old age. I would point out that a parole does not mean an unconditional release. If Ingólfur Ingólfsson were let out on parole and remained in Canada, *he would have to remain in Canada if he were on parole.* It means that it would be necessary for him to report to the chief of police in the town, city or district, where he was then living, once a month, and if it should happen that he again came into the toils of the police and was convicted even of drunkenness that his parole would be automatically suspended and he would then have to report to the penitentiary to complete his sentence, there to remain until his death, and if the Icelandic National Patriotic League were responsible for the obtaining of such parole, this happening would naturally react against the society and would be very harmful indeed. In view of his crime record I would not see any possible advantage in allowing Ingólfur on parole in Canada as I feel assured that in due time he would again come into the hands of the law, then all the efforts that had been expended on his behalf would be in vain, and that vanity would again rise and become blacker than ever. On the other hand, if it were so found that Ingólfur Ingólfsson was mentally unsound, and he was so found by a high mental authority and the Department would naturally require him to be placed in a mental hospital at the expense of the Society as they would be responsible for the finding, then he would not be released until a certificate from the surgeon in charge of such mental hospital would be obtained, certifying that he was sane, and at the same time they would require an undertaking of the Society that this procedure would be taken, and if he were then declared to be sane, as above stated, he would still be on parole ,and if he ever got into the hands of the law again, back to the penitentiary, he would go to complete his sentence.

I must say here that I did not see Ingólfur Ingólfsson while at Prince Albert Penitentiary because I was not allowed to do so. It is impossible for a lawyer to interview a prisoner in the penitentiary without first obtaining leave from the superintendent of penitentiaries at Ottawa, Ontario, and it is also not open for a prisoner to communicate with a lawyer at his own request without first obtaining leave of the superintendent of penitentiaries at Ottawa, and as I felt no need to gaze upon his countenance I did not go to the trouble of obtaining that leave which might have taken days.

It has been brought to my attention by one of the authorities at the penitentiary that if the Sociey had the welfare of Ingólfur Ingólfsson a heart and wished to do him well that they would not take the chance of having him declared insane and sent to a mental hospital, which would react as against his physical welfare as he is better cared for in the penitentiary, but that they would allow the matter to be dormant for the next five or six years and if at the expiration of that time Ingólfur Ingólfsson was still in the world that they make application to the Minister of Justice for his parole. At the time of such appli-

cation an undertaking be given by the applicants whomsoever they may be that they will return ngóllfur Ingólfsson to the country of his birth and thereby obtain an unconditional release which would naturally make him a free man absolutely on the one condition that he does not return to Canada. This is not suggested on the assumption to shoulder the country of his birth with an undesirable, but is made solely in the welfare of the prisoner because if he ever committed a criminal offence in such country and there came into the hands of the police and was convicted, that would not mean that he would be compelled to return to Canada and complete his sentence here.

Any other suggestion for the parole of Ingólfur Ingólfsson would be mere foolhardiness for any society to act for themselves and make an application for the parole of Ingólfur Ingólfsson in view of his crime record but because it would be almost 100 per cent certain that his parole would be shortlived as he is bound one way or another to come into the hands of the police again.

It is therefore my recommendation that in view of the above stated findings that Ingólfur Ingólfsson is mentally incompetent and has a mentality of a child of eight to twelve years of age, and seeing his case is similar to that of Olson's, who is now in the penitentiary, that no further steps be taken to further enlarge upon the question of the insanity of Ingólfur Ingólfsson, except that I believe that it would be advisable for the parties in charge of the welfare of this unfortunate prisoner to obtain the ruling of the Minister of Justice as to his reasons for having the sentence of death commuted to life imprisonment.

My second and last recommendation is that nothing further be done in this case until such a time as action may or may not be taken in the obtaining of a pparole for Ingólfur Ingólfsson, but no such application be made unless it be made on the understanding that the parties making the application obtain an unconditional parole."

Tillaga frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum studd af Ásg. Blöndahl, að þakka Þjóðræknisfélaginu fyrir að hafa leitað sér þessara upplýsinga og sömuleiðis að þakka Mr. Eggertsson fyrir hans ítarlegu skýrslu, var samþykkt.

Fundi frestað til kl. 10 að morgni.

Eins og ákveðið var á síðasta fundi kom þing saman kl. 10 að morgni.

Fundargerð síðasta fundar var lesin og samþykkt með svohljóðandi breytingu: Að þess sé látið getið í fundargerðinni, að forseti hefði æskt jákvæðra upplýsinga frá Hjálmari Bergman um á hvern hátt væri hægt að hjálpa Ingólfi Ingólfssyni frekar, en ekki fengið svar.

Ennfremur að í stað þess útdráttar úr skýrslu Árna Eggertsonar lögfræðings er gefin var á íslenzku af ritara þingsins í fundagerðinni, sé bókaður úrdráttur, er lögfræðingurinn sjálfur semur.

Um skýrslu Árna Eggertssonar urðu nokkarr umræður. Báru þeir Ásgeir I. Blöndahl og Þorsteinn Guðmundsson upp skrifaða tillögu viðvíkjandi skýrslunni og Ingólfsmálinu er svo hljóðar:

Samkvæmt þeim upplýsingum er þinginu hafa borist um fangan Ingólf Ingólfsson, ályktar þingið að lýsa því yfir, að það telur gersamlega ókleift, að taka upp mál hans, eða gera tilraun til þess, að fá hann fluttan úr stað. Telur þingið mjög mikinn vafa á því, að manninum sé greiði gerður með slíkri tilraun.

Jafnframt lýsir þingið yfir því, að það telji heppilega bendingu í ávarpi forseta, að gjaldkera sé framvegis falið, að færa eftirstöðvar samskota fjársins á sérstökum lið í reikningum félagsins.

*Ásgeir I. Blöndahl,*
*Þorsteinn Guðmundsson.*

Um þessar tillögur og Ingólfsmálið í heild sinni spunnust langar umræður.

Séra Jóh. P. Sólmundsson kvaðst ekki ætla að elta ólar við orðalag eða smávægilegar athugasemdir, sem í hug hans

hefðu komið er tillagan var lesin og teldi sig henni því samþykkan.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson sagði að sér virtist felast í tillögunni að ekkert ætti að gera fyrir Ingólf og væri hann því á móti henni.

Þorsteinn Guðmundsson kvað Þjóðræknisfélagið hafa annast Ingólfsmálið samviskusamlega, frá hvaða hlið sem á væri litið en svo væri það ausið hlífðarlaust skömmum fyrir vikið. Virtist honum slíkt svo fjarri allri sanngirni, að naumast tæki tali.

Séra Jónas A. Sigurðsson mælti nokkur orð með tillögunni og því að hún væri samþykkt óbreytt.

Jón Gillis áleit bezt, að Ingólfur væri ekki hreyfður þaðan sem hann nú væri, eins og skýrsla Árna Eggertssonar lögfræðings benti á.

Arnljótur Olson kvað tímamót í Ingólfsmálinu. Skýrsla Árna Eggertssonar, sem í alla staði væri góð, væri tilefni til þess. Róleg íhugun um málið væri æskileg. Viðvíkjandi tillögunni kvaðst hann óánægður með, ef ekkert yrði reynt að gera fyrir Ingólf.

Árni Eggertsson lögfræðingur vísaði til skýrslu sinnar, þar sem bent var á, að ekki væri ólíklegt, að Ingólfur fengi náðunarfrelsi (parole) að 10 árum liðnum frá dómi. Aldur hans væri nú 59 eða 63 ár. Um sjötugt yrði hann laus úr fangelsinu, hve lengi sem það yrði ef engin sæi betur fyrir. Í svip væri ekki sjáanlega neitt hægt að gera, sem honum gæti skoðast fremur til heilla, en að hann væri kyr látinn þar sem hann er.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson þakkaði Árna Eggertssyni fyrir skýrsluna. Hann kvaðst hafa safnað í Ingólfssjóðinn og hafa verið búinn að skrifa dómsmálaráðherra landsins, áður en Þjóðræknisfélagið tók málið að sér. Hann hefði gert það til þess að reyna að hreinsa Íslendinga af óorðinu, en sæi nú að hann hefði verið að gabba gefendur, eins og með féð væri farið. Kvað það ósk sína að hægt væri að fara með Ingólf heim til Íslands 1930. En Þjóðræknisfélagið væri ekki kristilegar hugsandi en svo, að það skelti skolleyrum við öllum bjargráða tilraununum.

Sigfús Halldórs frá Höfnum kvað ræðu Dr. Sig. Júl. Jóhannessonar ekkert annað en "sentimental" þvaður. Fyrir Ingólf hefði Þjóðræknisfélagið gert að minsta kosti alt sem sanngjarnt var að fara fram á að gert væri, með því að útvega honum lögmann, er um það hefði séð. Þó að Dr. Sig. Júl. Jóhannesson kallaði það ókristilegt að láta ekki Ingólf lausan, litu dómstólarnir öðru vísi á það mál. Minti ræða doktorsins sig að sumu leyti á hróp lýðsins forðum: Gef oss ekki þennan (Krist) lausan, heldur Barrabas. En hvað sem því liði, væri hjálpin sem um væri töluð Ingólfi til handa, með því að koma honum á vitfirringahæli, engin. Viðvíkjandi leifum varnarfjárs Ingólfs, lýsti hann Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, ósanninda mann að því, að Þjóðræknisfélagið hefði dregið sér það fé. Í sambandi við flutning á Ingólfi heim til Íslands, skoraði hann á Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Hjálmar Bergmann lögfræðing og Jónas Pálsson, að lýsa því opinberlega yfir, að þeir væru fúsir til að ábyrgjast það sem af því hlytist, að Ingólfur væri fluttur til Íslands, ef skraf þeirra um það væri annað en meiningarleysa, áður en tilraun væri hafin í þá átt.

Einar P. Jónsson kvaðst hafa verið óánægður með ráðstöfun ársþingsins 1926 á Ingólfssjóðnum, en sú ráðstöfun er nú væri gerð í tillögunni, væri nær sinni skoðun.

Árni Eggertsson lögfræðingur tók það fram, að eftir að hafa íhugað mál Ingólfs frá öllum hliðum, væri hann þeirrar skoðunar, að honum væri happasælast að vera þar sem hann er komin að svo stöddu. Við mættum ekki gleyma því, að sem canadískir borgarar, yrðum við að skoða manninn dæmdan í lífstíðar fangelsi lögum samkvæmt. Íslendingum yrði nú sérstök eftirtekt veitt, fram að árinu 1930. Væri því mikils vert, að þeir létu ekki lítilsháttar skoðunamun á velferðamálum sínum, verða til þess að öðru vísi væri á það

litið en hingað til hefði verið gert. Óskaði hann að þeir heimsæktu ættjörðina sem bræður.

Jón Gillis gerði breytingartillögu og Dr. Sig. Júl. Jóhannesson studdi er svo hljóðar:

Samkvæmt fengnum upplýsingum, þá sjáum vér ekki, að vér getum eða höfum getað bætt kjör Ingólfs Ingólfssonar að nokkru leyti. En sökum þess, að það er ekki víst að það verði ætíð þannig, þá leggjum vér til, að þeirri bendingu forseta félagsins sé tekið, að sjóðurinn sé lagður á banka sem sérstakur sjóður og varið einungis Ingólfi Ingólfssyni til hjálpar.

Forseti kvað þessa tillögu ekki geta komið til greina með því, að hún væri að efni til hin sama og aðal tillagan. Lét hann þó, með leyfi þingsins, að þeirri beiðni tillögumanna að bera tillöguna upp. Var hún feld við atkvæða greiðsluna.

Bending kom frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum og Árna Eggertssyni, lögfræðingi að við síðustu orð aðaltillögunnar sem hljóðaði svo: að færa eftirstöðvar samskotafjársins á sérstökum lið í reikningum félagsins," sé bætt orðunum: "undir nafninu: Varnarsjóður Ingólfs Ingólfssonar." Veittu tillögumenn þá breytingu fúslega.

Var þá gengið til atkvæða um aðal tillöguna. Báðu fulltrúar deilda um leyfi til að nota atkvæðisrétt samkvæmt skírteinum sínum frá deildum, sem auðvitað var veitt. Féllu atkvæði þannig, að tillagan var samþykkt með 232 atkvæðum. Ekkert atkvæði var greitt á móti.

Þá var heillaóska símskeyti lesið af forseta frá Swedish Canadian League til Þjóðræknisfélagsins, er svo hljóðaði:

To the cnovention of the Icelandic Patriotic League, care of Rev. R. E. Kvaran, 796 Banning St., Winnipeg, Manitoba:—

Expressing our greetings to your convention with hopes of good results from same, we also desire to congratulate you upon your motion for a Scandinavian Home and want to assure you of our most sincere appreciation for your initiative.

Swedish Canadian League,
per Carl E. Rydberg, Sec'y.

Var skeytinu fagnað með lófaklappi.

Fundi frestað til klukkan 2 e. h.

Þingið kom saman klukkan 2 e. h. Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt með bendingu um breytingu á orðalagi vissrar frásagnar.

Með því að þetta var á þriðja degi frá þingsetningu, fór nú fram stjórnarnefndarkosning fyrir næstkomandi ár, er þannig lauk:

Fyrir forseta voru útnefndir Sigfús Halldórs frá Höfnum og séra Jónas A. Sigurðsson. Hlaut séra Jónas A. Sigurðsson kosningu.

Fyrir vara-forseta voru útnefndir Sigfús Halldórs frá Höfnum og séra Ragnar E. Kvaran. Hinn fyrnefndi afsakaði sig og var því séra Ragnar E. Kvaran kosinn í einu hljóði.

Fyrir ritara voru útnefndir Stefán Einarsson og dr. Rögnvaldur Pétursson. Afsakaði hinn fyrnefndi sig svo dr. Rögnvaldur Pétursson var endurkosinn í einu hljóði.

Vararitari var endurkosinn í einu hljóði séra Rúnólfur Marteinsson.

Fjármálaritari endurkosinn Halldór S. Bardal.

Varafjármálaritari Stefán Einarsson.

Féhirðir endurkosinn Árni Eggertsson.

Varaféhirðir Bergþór E. Johnson.

Skjalavörður Ólafur S. Thorgeirsson.

Yfirskoðunarmenn reikninga félagsins voru kosnir B. B. Olson og W. Jóhannsson.

Nú var aftur tekið fyrir álit fræðslumála milliþinganefndarinnar er frá var horfið er skýrsla Árna Eggertssonar lögfræðings kom fyrir þingið. Álitið var rætt lið fyrir lið og var komið að 4. lið er því var frestað. Var sá liður samþykktur, einnig 5., 6., 7., 8. og 9. liður. En viðvíkjandi 9. lið álitsins, er fjallaði um skógræktarmálið, lagði Sigurgeir Sigvaldason til og Ari Magnússon studdi, að 5 manna milliþinganefnd sé skipuð til að

hafa það mál með höndum. Var það samþykkt. Í nefndina voru þessir skipaðir: séra Rúnólfur Marteinsson, B. E. Johnson, séra R. E. Kvaran, séra J. P. Sólmundsson, Sigfús Halldórs frá Höfnum.

Heimferðarmálið var næsta mál á dagskrá. Flutti formaður Heimfararnefndarinnar, J. J. Bildfell, all-langt mál um heimferðina 1930. Var hann ásamt dr. R. Péturssyni nýkominn úr ferð til Íslands. Gerði hann ítarlega grein fyrir störfum nefndarinnar eins og þeim var þá komið og sagði auk þess hinar beztu fréttir heiman að af horfum málsins. Var skýrslu hans, sem gefin var munnlega, en síðan hefir verið víða flutt og birt, tekið af þinginu með lófaklappi.

B. B. Olson lagði til og Guðjón Friðriksson studdi að formanni Heimfararnefndarinnar sé þakkað af þinginu fyrir hans góðu fréttir. Var það samþykkt með því að þingheimur stóð á fætur.

Ennfremur lagði Ásgeir Blöndahl til og B. B. Olson studdi, að skýrsla J. J. Bildfell sé viðtekin. Samþykkt.

Undir nýjum málum benti J. J. Bildfell á að tveir menn heima, þeir Einar H. Kvaran og dr. Guðm. Finnbogason ætluðu að gefa út safn af úrvalsritum vestur-íslenzkra rithöfunda og að þeir æsktu samvinnu við Þjóðræknisfélagið í því starfi. Var stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins falið að kjósa nefnd manna hér til að vinna að þessu máli með þessum mönnum heima.

Forseti, séra R. E. Kvaran, tilkynnti þinginu að hann hefði fengið beiðni um að vísa á færann mann til þess að þýða nútíðar skáldskap íslenzkan á enska tungu. Hefir virðulegt útgáfufélag á Englandi ákveðið að gefa út slíka bók á þessu ári. Forseti kvaðst hafa bent á Mrs. Jakbínu Johnson sem hefði orðið vel við tilmælunum og myndi nú þessum þýðingum lokið. Var þessari frétt tekið með almennum fögnuði þingmanna.

Fundi frestað til klukkan 5 e. h.

Eftir þrjá-fjórðu stundar fundarhlé, tók þingið aftur til starfa klukkan 5 e. h.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt.

Minntist Ásgeir I. Blöndahl á málið um þýðingar íslenzkra ljóða á enska tungu, er forseti hafði minnst á. Benti hann á, að sér fyndist betra að fleiri en einn ynnu að þessum þýðingum. Kvað hann þýðingar eftir Pál Bjarnason, Wynyard, til dæmis eftirtektaverðar fyrir vandvirkni.

Forseti kvaðst einungis hafa verið beðinn að benda á eina manneskju, er hefði þetta með höndum, og þætti sér líklegt að útgefendur hefðu þegar gert samning við Mrs. J. Johnson.

Þá var álit bókasafnsnefndar lesið upp af Þorsteini Gíslasyni, er svo hljóðar:

Við, sem settir vorum í nefnd til þess að athuga bókasafnsmál Þjóðræknisfélagsins, viljum leyfa oss að þakka þeim vinum félagsins sem gefið hafa bækur til safnsins á árinu. Mrs. Steinunn Líndal, Victoria, B. C., sem gaf því um 175 eintök sem nú er komið til skjalavarðar, og lestrarfélagið í Churchbridge, í gegnum hr. Magnús Hinriksson, bókasafn sitt. Þær bækur eru nú hjá deildinni "Snæfell" og í hennar vörzlum eins lengi og deildin æsk ir þess, en þó eign aðalfélagsins.

Vér vonum að margir fleiri vinir félagsins fylgi fordæmi þessara tilgreindu vina í framtíðinni.

Eins og sakir standa sjáum vér ekki ráðlegt, að petta safn, sem félagið á nú hér í bænum sé opnað til útláns fyrir félaga á þessu ári. Það eru enn tiltölulega fáar bækur í safninu sem almenningur sækir eftir til lesturs. Í framtíðinni vonum vér eftir að safnið aukist svo að bókum, að kringumstæður geri það mögulegt, að félagsmeðlimum sé gefinn kostur á að fá bækur þess til láns.

*H. S. Bardal*
*T. J. Gíslason*
*J. J. Húnfjörð.*

Var álitið samþykkt.

Þá var lesið upp þingnefndarálitið um löggildingu félagsins og lagabreytingar

þær er stjórnarnefndin lagði fyrir þingið. Urðu nokkrar umræður um álitið og var því að síðustu aftur vísað til nefndarinnar til frekari athugunar.

Annar liður í áliti þingnefndar í málinu um breytta tilhögun á starfi embættismanna, er frestað var frá 4. fundi, var því næst íhugaður. Fjallaði sá liður um kaup fjármálaritara. Gerði J. P. Sólmundsson þá breytingartillögu og Guðjón Friðriksson studdi, að í stað þess sem í þessum lið álitins standi, að fjármálaritara skuli greiddir $150.00 á ári, skuli koma, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að greiða fjármálaritara það sem hún skoði hæfilega þóknun fyrir starfið. Samþykkt.

Fundi frestað til klukkan 8.15 að kveldi.

* * *

Þingið kom saman kl. 8.15 e. h. — Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykkt.

Séra Jónas A. Sigurðsson las upp álit það, um löggildingu og stjórnarskrárbreytingar, er vísað var til nefndarinnar á síðasta fundi, með þeim breytingum, er meirihluti nefndarmanna var samþykkur. Hljóðaði þá álitið svo:

*Lagabreytingar og löggilding*:

Nefndin í þessum málum leggur til að þingið samþykki eftirfylgjandi lagabreytingar á grundvallarlögum eða stjórnarskrá félagsins:

1. Að í staðinn fyrir *Stjórnarskrá* komi *Lög*.
2. Að við 13. grein laganna sé bætt: (Hér tillaga stjórnarnefndar óbreytt. —Sjá framar í fundargerðinni).
3. Að 20. grein sé breytt þannig: (Tillaga stjórnarnefndar óbreytt).
4. Að 21. grein sé breytt þannig: Tillaga stjórnarnefndar óbreytt, nema að umboðstala verði ekki 10 atkv. heldur 20 atkv.
5. Að 27. grein, sem er ný, sé á þessa leið: (Till. nefndar óbreytt).
6. Að sú grein sem nú er 27. grein verði 28. grein og við þá grein sé bætt: (Tillaga stjórnarnefndar óbreytt).
7. Að löggilding félagsins sé frestað að þessu sinni.

Á þingi í Winnipeg, 1. marz, 1929.

*Jónas A. Sigurðsson*
*Th. Guðmundsson*
*Ásgeir I. Blöndahl*
*T. J. Gíslason*
*Bergthor E. Johnson*
*H. S. Bardal.*

Ásm. P. Jóhannsson las þá næst upp og skýrði með nokkrum orðum álit minni hlutans í nefndum málum, er svo hljóðaði:

*Minni hluta tillaga*:

1. Að þingið feli stjórnarnefndinni að yfirfara grundvallarlögin eins og þau eru eða kunna að verða eftir þetta þing og enn á ný athugi vandlega hvort ekki sé enn nauðsyn á frekari lagfæringum eða viðbætir, áður en prentun á grundvallarlögunum sé framkvæmd.
2. Að umboðs atkvæðaréttur deilda, samanber 21. grein, falli úr.

*A. P. Jóhannsson.*

Um þessi tvö þingnefndarálit urðu talsverðar umræður.

Loks gerði Kristján Pálsson tillögu og Guðjón Friðriksson studdi, að meirihluta álitið sé samþykkt.

Sigfús Halldórs gerði breytingartillögu og Ari Magnússon studdi, að meirihluta álitið væri rætt lið fyrir lið. Samþykkt.

Voru 1., 2., og 3. liðir samþykktir. Viðvíkjandi 4. lið gerði Sigfús Halldórs frá Höfnum tillögu og Jón Stefánsson studdi, að liðurinn sé felldur. Var tillagan feld og 4. liður því samþykktur. 5. liður var samþykktur, en 6. liður var felldur. 7. liður var samþykktur, nema viðbótin við lagagreinina.

Um minnihlutaálitið féll atkvæðagreiðslan svo, að 1. liður var samþykktur. Annar liður komst ekki að eftir úrskurði forseta.

Þegar hér var komið tók hinn nýkosni forseti, séra Jónas A. Sigurðsson við

fundarstjórn. Var honum heilsað er hann tók sætið með lófaklappi af þingheimi.

Þá var og lagt til að fráfarandi forseta sé greint þakklætisatkvæði fyrir frámunalega vel unnið tveggja ára forsetastarf. Samþykkt með lófaklappi.

Forseti minntist nokkurra látinna félaga á árinu. Reis þingheimur úr sæti í samhyggðarskyni.

Séra Rúnólfur Marteinsson benti á að sér fyndist viðeigandi að Þjóðræknisfélagið gengist fyrir prentun á fyrirlestri þeim, er séra J. P. Sólmundsson flutti á þinginu.

Séra R. E. Kvaran lagði til og Friðrik Sveinsson studdi, að stjórnarnefnd reyni að sjá um að fyrirlesturinn komi fyrir almenningssjónir. Samþykkt.

Sigfús Halldórs frá Höfnum fór nokkrum orðum um vandkvæðin á því, að fá æskulýðinn til þess að lesa íslenzkt mál. Kvað hann áhrif Þjóðræknisfélagsins enn allt of lítil í þá átt. Æskunni yrði félagið að ná. Kirkjumálarig kvað hann stinga upp höfði of títt í þjóðræknismálunum sem öðrum málum Vestur-Íslendinga. Áleit hann íþróttir og söng einhlítasta ráðið til að hylla æskuna. Gerði hann að tillögu og Jón Stefánsson studdi, að þingið fæli stjórn Þjóðræknisfélagsins, að styðja að söngkennslu af ítrustu kröftum á árinu. Samþykkt.

J. J. Bildfell talaði nokkur orð viðvíkjandi því, að beina huga íslenzkrar æsku hér til Íslands. Kvað hann ýmsa vegi til þess. Eitt meðal annars væri, að fræða æskulýðinn um Ísland með myndum.

Þá var lagt til og samþykkt, að svara hinu bróðurlega skeyti frá Swedish Can. League.

Deildinni "Brúin" var og þakkað fyrir tilboðið að hafa næsta ársþing í Selkirk, hvort sem föng yrðu á því eða ekki.

Þegar hér var komið var hinn setti ritari þingsins, Stefán Einarsson, beðinn að lesa síðasta fundargerning. Var hann samþykktur.

Hafði nú þingið staðið yfir í þrjá daga og starfað bæði að degi og kveldi, nema kveld það er deildin "Frón" hélt hið ágæta mót sitt, er sagt hefir verið frá áður. Var eftirtektarvert hvað þingið var vel sótt, mátti heita húsfyllir á hverjum fundi. Hefir áhugi Íslendinga víst aldrei verið meiri fyrir málefnum Þjóðræknisfélagsins, en á þessu síðasta þingi, enda er starfssvið félagsins orðið víðtækara en nokkurs annars íslenzks félags vestanhafs, bæði inn á við og út á við.

Áður en þinginu var slitið og menn tókust í hendur að skilnaði, voru sungnir þjóðsöngvar ættjarðarinnar og fóstrunnar og ríkisins.

Þingi slitið.

*Ragnar E. Kvaran,* forseti.

*Stefán Einarsson,* skrifari þingsins.



## Þjóðræknisfélagið

Var stofnað vorið 1919, í marz mánuði og er því ellefu ára gamalt. Það hefir þegar sýnt að það er ómissandi stofnun fyrir Vestur-Íslendinga. Félagatala þess er nú með því hæzta sem hún hefir verið. Árlega hafa því bæzt styrktarmenn og félagar og er það nú sem stendur sá félagsskapur sem beztrar aðstöðu nýtur í hérlendu þjóðlífi, til þess að láta sín að nokkru getið. Það er eina félagið í Vesturheimi, sem reynir að spenna út yfir allar mismunandi skoðanir íslenzkra manna og sameina þá um að auka frama þjóðflokksins í álfunni.

Væri félagið lagt niður í dag, yrði samskonar félag stofnað á morgun.

Um þrjú undanfarin ár hefir félagið verið að undirbúa hátíðaferð til Íslands, er farin verður á þessu sumri og er nú búið að gera flestar hinar nauðsynlegustu ráðstafanir henni viðkomandi, semja um flutning og verustað væntanlegra gesta, er heim kemur til Reykjavíkur, o. fl.. Verk þetta tókst það á hendur að beiðni Undirbúningsnefndar Alþingishátíðarinnar, og að því leyti hefir starfað í umboði þjóðarinnar heima að þessu verki.

Allir Íslendingar hér í álfu ættu að standa í félaginu. Ársgjaldið er aðeins einn dollar og fá félagsmenn Tímaritið ókeypis

Gangið í félagið og haldið tryggð við fólk yðar.

## Bókasafn Þjóðræknisfélagsins

Íslendingar, þér, sem eigið safn af íslenzkum eða skandinavískum bókum, er þér annaðhvort eigi hafið lengur not af eða þér viljið koma fyrir á þeim stað, sem þær geta komið að notum, munið eftir bókasafni Þjóðræknisfélagsins. Safnið tekur með þökkum á móti öllum bókagjöfum stórum eða smáum. Lestrarfélög, sem einhverra orsaka vegna eru að leggjast niður gætu á engan hátt betur ráðstafað bókasöfnum sínum en gefa þau til Þjóðræknisfélagsins. Bækurnar verða varðveittar frá glötun og þeim ráðstafað, á þann hátt, sem þær geta komið að sem beztum notum, léðar háskólasöfnum, og þeim, sem eru að leggja fyrir sig að nema mál og sögu þjóðar vorrar eða hafðar á þeim stað þar sem öllum veitist frjáls aðgangur að þeim.

Þeir, sem kynnu að vilja styrkja félagið á þennan hátt, eru beðnir að skrifa félagsstjórninni eða auglýsinga umboðsmanni Tímaritsins,

*A. Eggertsson,*
766 Victor St., W'peg.

# FJÁRHAGSSKÝRSLA

*Féhirðis, Fjármalaritara*

*og Skjalavarðar*

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA
## í VESTURHEIMI

## yfir árið 1929.

# Reikningur féhirðis

*yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi fyrir tímabilið frá 22. Febr. 1929 til 22. Febr. 1930.*

---

TEKJUR:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 22. Febr. 1929: | Á Landsbanka Íslands | $ 107.38 | |
| | Á Provincial Bank of Manitoba | 3,317.55 | |
| | Bankaávísan hjá féhirði | 94.40 | |
| 22. Febr. 1930: | Frá fjármálar. H. S. Bardal | 443 98 | |
| | Frá skjalaverði O. S. Thorgeirsson | 154.19 | |
| | Fyrir "Selskinnu"-sjóð | 2.00 | |
| | Frá Ársæli Árnasyni, Reykjavík | 16.00 | |
| | Frá Árna Eggertson fyrir augl. | 2,115.75 | |
| | Sigfús Halldórs frá íþróttanefnd | 47.30 | |
| | Frá félaginu Sleipnir | 3.81 | |
| | Bankavextir | 107.48 | |
| | | | $ 6,409.34 |

GJÖLD:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 22. Febr, 1930: | Kenslulaun í íslenzku | 250.00 | |
| | Ritstjóra og ritlaun | 264.06 | |
| | Fyrir prentun á 10. árg. Tímaritsins | 603.00 | |
| | Fyrir prentun á 11. árg. Tímaritsins | 625:00 | |
| | Umboðslaun á auglýsingum | 528.94 | |
| | Fundarsalsleiga, ársþings, og skógræktarfundar | 50.00 | |
| | Veizluhöld | 122.85 | |
| | A. G. Eggertson fyrir rannsókun á Íngólfs kringumstæðum | 287.70 | |
| | Fjármálaritaralaunin 1928-1929 og viðurkenning | 200.00 | |
| | Ferðakostnaður yfirskoðara | 19.65 | |
| | Jólagjöf til Mrs. Steinunnar Lindal | 25.00 | |
| | Ársþings auglýsingar | 15.00 | |
| | Prentkostnaður | 60.75 | |
| | Fyrir jólaspjöld, prentun og "Cuts" | 89.59 | |
| | Borgaður reikningur fyrir Sleipnir | 6.93 | |
| | Fyrir heiðursmedalíur | 4.50 | |
| | Fyrir ábirgðargjöld féhirðis og skjalav. | 16.00 | |
| | Eldsábirgðargjöld á bókum félagsins | 15.00 | |
| | Telegram og telephone | 6.45 | |
| | Víxilaun á ávísunum | 45 | |
| | Fjéhirðir fyrir frímerki og fl. | 5.40 | |
| | Á Landsbanka Íslands | 58.34 | |
| | Á Provincial Savings Bank | 3,155.23 | |
| | | | 6,409.34 |

ÁRNI EGGERTSON

Yfirskoðað og rétt fundið, 24. Febr. 1930.
B. B. Olson, Walter Jóhannsson.
yfirskoðunarmenn.

# Skýrsla fjármálaritara.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Borgað af félögum | $ 232.05 | | |
| " af deildum | 250.72 | | |
| " af Th. Thorfinssyni (4 Tímar. net) | 3.00 | | |
| Afhent féhirðir Á. E. | | | 443 98 |
| Borgað fyrir frímerki undir Tímaritið | | | 29.29 |
| " " " " bréf | | | 11.50 |
| " " peningavigslun | | | 1.00 |
| | 485.77 | | 485.77 |

H. S. BARDAL.

22. febr. 1930. Yfirskoðað og rétt fundið.
B. B. Olson, Walter Jóhannson, yfirskoðunarmenn.

# Skýrsla skjalavarðar fyrir árið 1929.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Seld 98 eintök 10. árg. | | | $ 98.00 |
| " 1 " 1.—10. árg. | | | 6.00 |
| " 1 " 1.—10. " | | | 5.00 |
| Sölulaun 40% af $109.00 | $ 43.60 | | |
| History of Iceland, 133 eint. $1.50 | | | 199.50 |
| Sölulaun skjalav. 25% af 266.00 | 66.50 | | |
| Burðargjald undir Tímritið | 36.78 | | |
| " " " | 3.43 | | |
| Umbúðapappír og garn | 4.00 | | |
| Borgað til féhirðis | 154.19 | | |
| | $ 308.50 | | $ 308.50 |

TÍMARITIÐ:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. árg. | Óselt við árslok 1929 | 595 eint. | Seld 2 | Gefin 3 | Óseld 590 |
| 2. " | " | 377 " | " 2 | " 2 | " 373 |
| 3. " | " | 84 " | " 2 | " 2 | " 80 |
| 4. " | " | 275 " | " 2 | " 1 | " 272 |
| 5. " | " | 280 " | " 2 | " 2 | " 276 |
| 6. " | " | 404 " | " 2 | " 3 | " 399 |
| 7. " | " | 362 " | " 2 | " 2 | " 358 |
| 8. " | " | 346 " | " 2 | " 2 | " 342 |
| 9. " | " | 248 " | " 2 | " 26 | " 220 |
| | | | 18 | 43 | 2910 |

| | | |
|---|---|---|
| 10. árg. Meðtekið frá Columbia Press | | 1500 |
| Gefin heiðursfélögum, rithöfundum | 27 | |
| auglýsendum | 103 | |
| Seld á árinu | 100 | |
| Óseld hjá útsölumönnum 195 / " skjalaverði 360 | 555 | |
| Til fjármálaritara | 550 | |
| Fróns | 165 | |
| | 1500 | 1500 |

HISTORY OF ICELAND óseld við årsl. 1928 182 eint.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| seld á árinu | 133 | | | |
| gefið | 1 | | | |
| A. Arnason | 1 | | | |
| hjá útsölum | 16 | 151 | hjá skjalav. 31 | |
| | | | hjá útsölum. 16 | 47 |

SVIPLEIFTUR SAMTIÐARMANNA óseld við årsl. 1928 139 eint.
hjá skjalav. 139

Ólafur S. Thorgeirsson.

24. Febr. 1930. Yfirskoðað og rétt fundið.
B. B. Olson, Walter Jóhannson, yfirskoðunarmenn.

# Yfirlit yfir sjóði félagsins.

| | | | |
|---|---|---|---|
| BYGGINGARSJÓÐUR | | | |
| 22. Febr. 1929: | Í sjóði | | 1014.72 |
| 27. Febr. 1929: | Fært yfir í Ingólfssjóð | 989.45 | |
| 27. Febr. 1930: | Vextir | | .88 |
| 28. Febr. 1930: | Í sjóði | 26.15 | |
| | | 1,015.60 | 1,015.60 |
| 22. Febr. 1930: | Í sjóð | | 26.15 |
| INGÓLFSSJÓÐUR | | | |
| 17. Febr. 1929: | Tekið úr byggingarsjóð | | 989.45 |
| 22. Marz 1929: | Borgað A. G. Eggertson | 287.70 | |
| 22. Febr. 1930: | Bankavextir | | 24.56 |
| | Afgangur í sjóði | 726.31 | |
| | | 1014.01 | 1,014.01 |
| | Í sjóði | | 726.31 |
| SELSKINNUSJÓÐUR | | | |
| 22. Febr. 1929: | Í sjóði | 97.59 | |
| 22. Febr. 1930 | Borgað á árinu | 2.00 | |
| 22. Febr. 1930 | Bankavextir | 3.42 | |
| | Alls í sjóði | | 103.01 |
| Skifting á sjóði félagsins: | Í byggingarsjóði | 26.15 | 725.31 |
| | Ingólfssjóði | 726.31 | |

---

# Skýrsla yfir eignir félagsins.

| | | |
|---|---|---|
| Tímarit I.—IX. 2910 eintök @ 50c. | 145500 | |
| 40% frá | 582.00 | $ 873.00 |
| X. 555 eintök @ 50c. | 227.50 | |
| 40% frá | 91.00 | 136.50 |
| History of Iceland 31 eintök @ 2.00 | 62.00 | |
| 25% frá | 15.40 | 46.50 |
| Svipleiftur samtíðarmanna 139 eintök @ 1.50 | 208.50 | |
| 25% frá | 52.12 | 156.38 |
| Bókasafn, skápur, ritvél og fleira | | 235.00 |
| Ársæll Árnason: skuld | | 201.37 |
| Selskinnusjóður | 103.01 | |
| Félagssjóði | 2359.10 | 3213.57 |
| Sjóður félagsins: Á Landsbanka | 58.34 | |
| Provincial Savings Bank | 3,155.23 | 3213.57 |

24. Febr. 1930. Yfirskoðað og rétt fundið.

B. B. Olson, Walter Johannson, yfirskoðunarmenn.